# Frásaga

## eins Prests í Pennsylvanía, af manni nockrum, sem hét Jóhann v. Lang.

Þegar eg var á reisu einni, segir Presturinn, til ad heimsækja vini mína, kom eg ad smábæum ýmsum, sem stódu á hædum nockrum, hvörra afstada mikid fallig var, jafnvel þó innbyggendur allir fátækir væru. Á einum af bæum þessum lifdu egtahjón þaug, sem í öllu nágrenninu nafnkunn voru fyrir sinn frómleika, því þaug — eins og Zacharías og Elízabet fordum — voru „bædi réttlát fyrir Gudi, og geingu í öllum bodordum og setningum Drottins óstraffanliga.“ Á sínu heimilis altari færdu þaug Gudi, hvörn morgun og kvöld, þacklætis offur, og í húsi þeirra, — hvar ánægjusemi bjó ásamt fátæktinni, — söfnudust saman, einn tíma eptir annann, innbyggendur nágranna þorpanna, sér til andligrar uppbyggíngar, og til ad ákalla Guds nád og miskunsemi. Af yfirbragdi þessara frómu hjóna framskein þeirra innvortis sálarfridur, hvörjum engir líssins stormar raskad gátu, heldur dag eptir dag sestu æ dýpri og dýpri rætur. Madur þessi hafdi á sínum ýngri árum verid ágjætur saungmadur, en nú hafdi hans kallmannliga og full-

komna rödd feingid einslags hjartahrærandi hreim. Ádur hafdi hann lærdt mikid af heimsligum og enda hneigslanligum ljódmælum, og kvedid þaug og súngid ydugliga; en eptir þad hann uppvakinn ordinn var, af þeim andliga dauda, hefir hann numid miklu meira af andligum dýrmætum saungvum, hvörja hann ydkar nú og um hönd hefir, sér og ödrum til uppbyggíngar. Þegar eg kom inní hús þessa manns, tók hann á móti mér med gledi og hjartanligri ástsemd. Af því eg nú af lángri reynslu vissi, ad, til þess ad gjöra komu sína sem nytsamligasta, er þad besta ráð, ad snúa samtali sínu strax til andligra efna, þá taladi eg til hans svoleidis: kjæri vin Jóhann, mér vyrdist þú vera einn af þeim sannluckuligu manneskjum, sem njóta þess stadfasta innvortis samvitsku-fridar, hjá hvöjum eingin umbreyting er á fögnudi og sorg, hughreysti og hrædslu, sem þó magnliga opt merkist hjá ödrum sonnum Jesú lærisveinum. Hann svaradi: ja, Gudi séu þess þackir, ad eg finn til þess ad eg í ljósinu geing, og ad Jesús er mér sífeldlega nálægur; en þó koma þaug augnablik, ad tilsinníng þess innvortis fagnudar, sem upphefir oss yfir þessa hégómligu veröldu, er ecki svo alls lifandi hjá mér; þó ber eg eingann ángistarfullann efa edur kvída fyrir daudanum, því eg veit á hvörn eg trúad hefi, og er fullviss um, ad eckert muni géta skilid mig frá þeim kærleika, sem er í Christó Jesú (2 Tim. 1, 12. Romv. 8, 35—39). En samt leggur veikleiki og vanmáttur vors jardneska hreisis mig ástundum undir þúngar lídanir, og mér finnst þá, sem líkamans þjáníngar

vilji hylja Jesúm fyrir augum sálar minnar. Veri samt sem ádur lángt frá mér allt mogl og óþolinmædi yfir Guds rádstöfunum! Æ eg hefi þúsundfaldar orsakir Gudi, óaflátanligar þakkir ad inna; því þó þad séu nú ad eins fá ár sídan, ad eg tók ad hyrda um himneska hluti, þá hefi eg þó alltíd stærstu orsok ad gledjast yfir gædsku og miskun míns Guds, sem, fram yfir alla mína von og bæn, blessar mig med sinni nád og mildi. Þegar hann hafdi þetta mælt, sagdi eg til hans: Þad væri mér, kjæri vin! mikil gledi, ad meiga heyra af þínum eiginn munni fráskírslu um þad, hvornig þad gékk til, ad þú umvendtist. Þad var fordum hid kjærasta samtals efni Gudsbarna, ad skíra hvort odru frá þeim stóru dásemdum, sem Drottinn hafdi vid þaug gjort, og vér eigum þeirra dæmi ad fylgja. Menn hafa sagt mér, ad þú, á þínu fyrri lífdaga skeidi, verid hafir einhvor hinn vesælasti þræll myrkranna maktar; þad væri mér þessvegna eins nytsamligt sem ánægjufullt, ad fá ad heyra þína frásogu um þad, hvornig þad gékk til, ad þú úr þessum þrældómi komst, til þess dýrdliga Gudsbarna frelsis. Þessi aldradi madur svaradi mér þá mjog vingjarnliga: Þá ósk ydar, minn herra! er mér hægt upp ad fylla. Ad sonnu hlýtur þad, ad uppvekja hjá mér kveljandi tilfinníngu, af ad líta tilbaka og hugsa til minnar fyrri villu og dármennsku; en þessi endurminníng hrópar þá undireins hátídliga til sálar minnar, um stærd Guds miskunar; sem hann henni audsýndt hefir. Sagan um mín úngdómsár, hefir þad líkliga fram yfir úngdóms sogur

af syndinni ramspilltra úngra manneskna, ad midt í því, ad hjá flestum þeirra ødrum hafa þad verid einir edur adrir stakligir lestir, sem hjá hverjum þeirra um sig drottnad hafa, þá hafa þeir allir undir eins haft yfirrád hjá mér. Ad mordi undanteknu, er þar víst einginn sá glæpur til, sem ei rikt hafi hjá mér á þeim tíma. Því svoleidis lidu mín úngdóms ár fram, í allslags ósæmiligum lifnadi og fullkomnu fráhvarfi frá Gudi, samt sérhverju er til Gudsdýrdkunar heyrir, midt í þeim svívyrdiligasta manna selskap. Dans, dryckjuskapur, og allslags ótérligheit, sem nefnast kunna, samt strid og áslog, voru míns fyrra lífernis æfingar. Vid þennann lifnadarmáta héldt eg eins eptir þad eg var giptur ordinn, enda þad væri þá enn-nú óforsvaranligra enn ádur; en sá syndugi vani hafdi, einsog vant er, sterkustu makt yfir mér. Allstadar hvar eg staddur var, inni húsum, edur úti á opinberum plátsum, voru þad svívyrdiligustu manneskjur, sem umhríngdu mig, og sem styrktu mig í því vonda, lockudu mig til dryckjuskapar, og samsinntu mínu gudsspottunarliga tali; midt í því þeir gjordu narr og hád ad trúarbrøgdum og allri Gudrækni. Þvilíkra selskapur er sannarlig drepsótt fyrir sálirnar, því þá heitir þad góda vondt, og þad vonda gott; ljósid heitir myrkur og myrkrid ljós. Þar eg nú ecki hafdi hina minstu christiliga sannfæringu í mér, svo leitadi eg mér þeirrar vidbjódsligu ánægju, ad afvegaleida adra til míns gudlausa þánka- og lifnadar-máta. Þessvegna kalladi eg til mín úngt fólk og børn nágranna minna á sunnudaga, og leitadist vid

ad skémta þeim med, ad segja þeim frá mínum frægdarverkum og hégómligu athöfnum. Tilheyrendur fékk eg nú fjöldamarga, sem mjög fúsir voru ad hlýda á þetta tal mitt, því eg hafdi þá ólukkuligu gáfu, ad géta gjördt þad áheyriligt og skémtiligt. O! hinn sídarsti dagur mun í ljós leida allan þann skada, sem eg med þessu svívyrdiliga medali gjördi, og eg hugsa nú til þess, med allra stærsta viðbjód, á sjálfum mér og mínu athæfi. Þó bar þad endur og stundum vid, midt í því eg reikadi á þessu gudlausa og glæpafulla skeidi, ad samvitskan tók ad bíta mig, og skjóta inn hjá mér einslags ótta fyrir eylífdinni, vegna sálar minnar. En þetta áleit eg ecki nema fyrir hugleysis grillur og gúnguskap, og kjæfdi þad undireins nidur hjá mér, hvar til ad brennivíns-dryckja var mér velkomid og dugligt medal. Um trúarbrögd og allt þad, sem til þeirra lítur, gjördi eg mér hina bárligustu ímindun. Mér sýndist eckért á þeim rída, nema rétt kannské á daudans sídurstu stundu; en ad rækja þaug væri óþolandi midt í gledi og ánægjusemdum þessa lífs. Eg áleit þá trúræknu Christnu ad vera sinnisveikar, grillufullar og ógjæfusamar manneskjur; og eg ímindadi mér, ad ef eg tæki fyrir mig þeirra trúarneiníngar, þá hlyti eg ad sviptast allri ánægju þess jardneska lífs. Midt í þessum lifnadarmáta nádi eg nú mínu 49da aldursári. En á því tíma skeidi (og nú eru nærri 6 ár sídan lidin) þóknadist Gudi ad senda tvo Presta í þetta hérad, sem bodudu lærdóm sáluhjálparinnar, med fullum krapti. Jafnvel þó eg findi nú hjá mér ein-

slags heimugliga drift, ad fylgja þeim mikla fjølda fólks, sem til kyrkjunnar streymdi, stód eg þó í móti þeirri drift um tíma, allt til þess eg loksins, af þeirri stóru sinnishræringu, sem prédikanir þessara manna uppvoktu medal fólksins, vard til þess knúdur og drifinn, svo laungun mín til þess sigradi skømm þá, er eg óttadist eg af því hafa mundi, (hjá mínum ádurverandi syndastallbrædrum); hvad einúngis hafdi ádur apturhaldid mér frá ad fara til kyrkjunnar. Svo fór eg þá þángad; en þá vildi svo til, ad eg tók mér sæti hjá einum gømlum manni, sem lifad hafdi ádur því sama óregluliga líferni, sem eg. Sá Texti, sem Prestsurinn lagdi útaf, voru þessi ord: Ebr. 11, 7.

„Trúin gjordi þad ad verkum, ad þá Nói „var af Gudi advaradur um þad, sem enn„þá ecki sást, óttadist hann Gud, og smíd„adi orkina til frelsis sínu húsi; med „trúnni fordæmdi hann heminn, og vard „hluttakari þeirrar réttlætingar, sem fæst „fyrir trúna."

Athugasemi mín vaktist kroptugliga vid þessa prédikarans rædu, og einkum hrærdust þánkar minir sterkt vid þad, ad þegar, eptir prédikunina, sú heilaga kvøldmáltíd var útdeild, og eg sá hvorsu fólkid skiptist sem í tvo flocka, þar sumir geingu til kvøldmáltídarinnar med heilagri gledi og laungun, en sumir, sem einga lyst þar til hofdu, skildu sig frá og urdu eptir; og þegar eg sá, ad á medal þeirra fyrri, er til Gudsbords geingu, voru nockrir þeirra, og sérílagi sá ádur-

nefndi gamli nágranni minn, sem ádur fyrir skömmu hosdu verid mínir stallbrædur í syndalíferni mínu, dryckjuskap og ødru, þá braust þá þánki sterkiliga um í sálu minni, ad hugsa til þess: ad allt eins mundi nú tilgánga á sídarsta degi, þá mundi þessi gamli madur og ýmsir adrir mínir fyrrverandi vinir (sem í tíma hefdu ydrun giørdt og Guds nádar réttiliga leitad), skiljast frá þeim ydrunarlausu, og fá ad heyra þessi ord af dómarans munni: „komid blessadir míns Føburs, og eignist þad ríki, sem ydur er fyrirbúid frá upphafi veraldar!" (Matth. 25, 34), og þeir sídan fá ad vera hjá Drottni eylífliga. En eg sjálfur og margir adrir, sem ecki hefdu snúid sér réttliga til Guds, né viljad þyggja hans nádarveitslu hér í lífi, mundu þá eptir verda og frá Gudi og hans útvøldum adskildir og útilokadir ad eylífu. Mér er ómøguligt frá því ad segja, hvad voldugliga þessi hugskots hræring tók mig til fánga. Eg stód strax upp og géck út úr kyrkjunni, í þeirri von, ad eg, med því ad slá mér í flock fólksins, sem úti var, gjæti aptur róligur ordid; en þad var forgéfins. Tárin hrundu nidur á kinnar mér, midt í því ad eg, eins og annar rasandi madur, hljóp ígégnum strætin. Hvar vill þetta lenda fyrir þér? sagdi nú mitt vonda hjarta vid mig; hvad munu vinir þínir hugsa og segja, þegar þeir sjá þig í þvílíku ástandi, ad þú kémur andvarpandi og grátþrúnginn út úr einni kyrkju? Hvad munu þeir annad giøra, enn hlæa ad þér, forsmá þig og spotta? Eg vil þessvegna — hugsadi eg med mér — bera mig

laus ad verda frá þessum ógédfeldu tilfinníngum, og þad því fyrri, því betur. Þar fyrir, til ad ná þessu áformi mínu, tók eg tilflugt mitt, sem margsinnum ádur fyrri, til þess vanaliga samvitsku svæfanda medals, nefniliga Brennivíns, og géck þessvegna inní þann næsta kjallara, og bad um þetta sama. Og nú hrædist eg, og mig hryllir vid ad hugsa til þessa skélfiliga medals, sem audveldliga hefdi mátt gjöra sálu mína eylífligu ólucksaliga; en Gud af sinni óendanligri miskunsemi hindradi framkvæmd þessa míns óttaliga ásetníngs. Sá sterki og áfeingi dryckur megnadi ecki ad verka þad sem eg tilætladist, nefniliga: hann gat ecki mína hugarángist burtu drifid. Deginum eptir hugsadi eg, ad taka tvímælin af, og tók nú inn tvöfaldt meira af medali þessu enn ádur; en þad var állt forgéfins sem fyrri. Sá þánki ofsókti mig og plágadi, hvar sem eg var, ad hugsa til þess, hvörsu ad þeir vinir mínir, sem eg í kyrkjunni sá, mundu á efsta degi fá dýrdarliga uppríſu og inngánga bústadi eylífrar sælu, midt í því ad eg, og margir adrir mundu steypast í eylíf fordæmíngar myrkur, ásamt þeim vondu öndum, er oss tældreigid hafa. Þó reyndi eg ennnú einusinni til, midt í minni óheyriligu hjartans forherdslu, ad drepa þessa þánka aptur nidur hjá mér, med dryckjuskap, sem líkliga hefdi sálgad lífi mínu til fulls, ef mér þad tekist hefdi. En ádur enn eg gat komid þessu mínu áformi fram, féll yfir mig slíkur líkamans óstyrkur, ad eg haltradi á bádar sídur, og gat valla

í fótunum stadid, og mér fanst ecki annad, enn ad líf mitt mundi hastarliga enda taka. Eg lypti mér samt upp, til þess ad géta úti, á fríu plátsi, hreint lopt innandad, til ad kiæla mér fyrir brjóstinu; en ádur enn eg nádi dyrunum, til ad komast út, fann eg ad mér sortnadi svo fyrir augum, ad eg gat valla veginn fundid. Mér sýndist og faunst allt snúast og hrærast í kríngum mig, og midt í þessu greip mig sá skélfandi þánki, ad eg á sømu stundu hlyti, sem annar vesæll og þó forherdtur syndari, ad byrtast fyrir augliti þess réttláta og mér reida Guds, svo samvitska mín sagdi mér innvortis: Nú er þér annadhvørt ad gjøra, ad taka af øll twímæli og snúa þér alvarliga til Guds, ellegar þú verdur eylífliga fortapadur. Án þess, ad eg vissi nú neitt af sjálfum mér, sneri eg mínum reikandi skrefum ad einum nálægum skógi, hvørt eg komst, án þess ad géta neitt séd edur adgjætt, af því sem á vegi fyrir mér vard; og þegar eg var þar kominn, kastadi eg mér, í einslags ofbodi, nidur hjá einum um koll feldum stórum eykarboli, og reyndi til ad stama fram nockrum bænarordum. Eg nefndi nád, fyrirgéfníngu, miskun, og sagdi: „Gud vertu mér syndugum líknsamur!" Þessi fáu, sundurslitnu og afbrotnu ord þreyngdu sér út af vørum mínum. Hefdi eg gétad grátid, þá hefdi mér nockud létt; en lækir minna tára voru hreint stífladir og innsigladir. Aptur og aptur kastadi eg mér nidur á mín kné, en eg gat ecki einu tári úthellt. Þegar nú nóttin kom, gat einginn svefn komid á mín augn, því skélfíngar Guds

høfdu mig til fánga tekid, og sála mín var undir byrdi sínna hormúnga rétt sem sundurknosud. Þetta sama rósemdar- vonar- og huggunarlausa ástand sálar minnar hélt nú áfram allann þann nærstfylgjanda dag. Fyrst vid endalok hins þridja, þreyngdi sinn litill ljósgeitsli gégnum þad þykkva myrkur, med hverju eg umspentur var. Eg gat þá fyrst kannast vid þad, ad Gud kynni þó enn ad fyrirgéfa mér,, svo stórar sem mínar syndir væru. Svo losnudu þá fjøtur minnar túngu, og eg gat ákallad Drottinn, midt í því ad mín tár útstreymdu yfirgnæfanliga. Eg eyddi svo nockrum døgum alltaf grátandi, og um hjálp Drottins og miskun sárbænandi, og gat nú meir og meir, betur og betur sett mitt trúnadartraust á Guds miskunsemi og ofurgéfid mitt hjarta Jesú Christó, og hafdi þann fasta ásetníng, ad þó þad kannské væri nú ordid offeint fyrir mig, þá skyldi eg samt, midt í grátbeidni minni, deya fyrir hans fótum. En eptir því sem eg betur og betur tók ad skilja Evangelíum, fór vonin í hjarta mínu vaxandi, og eg fór ad sjá, ad Jesús Christur er þvílíkur Endurlausnari, sem fullkomnustu makt hefdi til ad draga mig úr afgrunni fortøpunarinnar; „þar hann kann alla þá fylliliga hólpna ad gjøra, sem med hans adstod koma til Guds, med því hann lifir æfinliga, til ad bidja fyrir þeim," (Ebr. 7, 25). Svo hvurfu nú hvad af hverju, myrkur øll og ángursemdir burt úr sálu minni, en ljós, fridur og fognudur komu aptur í þeirra stad. Sídan nú ad þessi sáluhjálpliga umbreyting hjá mér skédi, eru fleiri enn 5 ár lidin; og

jafnvel þó eg ádur væri svo hneigdur til dryckjuskapar, sem nockur madur vera kann, þá hefir samt sídan ecki sú minsta gyrnd til áfengra dryckja ásókt mig. Og nú gét eg í sannleika vitnad það: ad eg, ádur enn eg umvendtist, hafdi hvorki neina þeckíngu og því sídur sanna reynslu um það, hvad sannarlig farsæld og lucka sé; en nú er eg bædi sannfærdur ordinn og kominn ad raun um það: ad þó ad Gudhrædslan hefdi eingar adrar luckuligar afleidslur, enn þær sem oss ad eins hérna meigin grafarinnar af henni hlotnast gáta, væri hún samt einúngis þessvegna, sem hin dýrmætasta perla, verdug eptir ad sækjast; því „Gudhrædslan hefir (segir Ritníngin) fyrirheit bædi þessa lífs og hins eptikomanda" (1 Tím. 4, 8).

Medan nú ad Jóhann Lang sagdi sögu þessa, höfdu ædi margir af hans frómu nágrönnum komid inní kot hans, og róliga sett sig þar nidur, hvor eptir annan. Þegar hann svo endad hafdi sögu sína, sameinudum vér oss allir til bænagjördar; hvar á eptir ad Jóhann saung einn sálm, sem svaradi vel hans lífs kríngumstædum, og það med þvílíkri hjartans hræríngu, ad allra augu flutu í tárum. Eg fann og siálfur til þvílíks innvortis styrks og endurnæríngar, ad eg vard fullur af fögnudi, og sagdi aptur og aptur med siálfum mér: „ó hvörsu yndælt og gott er hér ad vera!"

Allir þér nú, sem lesid sögu þessa, edur heyrid hana lesna, gjætid, í Guds nafni, ad ástandi ydar! Gjætid fyrst og fremst ad, hvort þér, á vissann hátt, erud ecki eins lángt frá Christó, eins og Jóhann þessi

ádur var? Æ ef svo er, snúid ydur þá, fyrir Guds skuld, brátt vid og leitid miskunar hjá lifanda Gudi, í Jesú nafni! Vitid fyrir víst, ad ydur verdur ecki, framar enn honum, nádar og miskunar synjad, ef þér, einsog hann, leitid hennar réttiliga. En varid ydur vid einum meinskadligum þánka, sem ydar vonda hjarta kann máské ad innbirla ydur, og daudans hætt er vid, ad allt ofmarga á tálar dragi! Hann er þessi: þeinkid ecki, ad á slíkri umvendun, sem Jóhann gjørdi, sé einúngis þørf fyrir Heidíngja og Gydíngja, edur þvílíkar manneskjur, sem Jóhann þessi var, ádur enn hann snerist; en ad velsidad og ærligt fólk útvortis, (einsog þér þykist vera, og kannské sumir séud), þurfi hennar ecki vid. Heyrid hvørnig Guds ord lýsir øllum mønnum: „Þar er einginn sem réttlátir sé fyrir Gudi, og ecki einn; einginn sem ad skynsamur sé (nefnillga á andligann hátt, af náttúrunni til), og einginn sem ad Gudi (réttiliga) leiti. Allir saman eru þeir fráhverfir, og allir saman ódugligir ordnir. Þar er einginn sem gott gjøri og ecki einn. Hér á er einginn mismunur; þeir eru allir saman syndarar (eptir edli sínu), og hafa skort á þeirri hrósun, sem fyrir Gudi gildir.“ (Róm. 3, 10—23.

Af þessum ordum Ritníngarinnar sjáum vér þá réttu og sønnu lýsíngu allra manneskna — svo vel Christinna sem Heidíngja — af náttúrunni til. Vel sé hvørjum þeim, sem svoleidis lærir ad álíta sjálfann sig í Guds augum, og finnur þannig til sinna synda spillíngar, sárydrast hennar, barmar sér og grætur út

af henni fyrir Gudi, og tekur fyrir sig ad stríða á móti henni af allri alvöru og láta hana ecki yfir sér drottna, en þó midt í öllu þessu setur sína trú og traust til Jesú Christs, í tillíti til hans forþénustu og fyrirbónar. Farir þú svoleidis ad rádi þínu, minn kjæri vin! hvör sem þú ert, þá muntú nád hjá Gudi finna; ella ecki.

Hugsid lika — þér sem þetta heyrid — med skélfingu — til þess máta, sem nefndur Jóhann, medan hann óumvendtur var, brúkadi til ad svæfa med og drepa samvitsku sína. Hvör var hann? Sá sami, sem fleiri hans brædur hafa gripid til, í líkum kríngumstædum; nefniliga: ad drecka brennivín. Þetta er þad allrahásktaligasta medal í þeim efnum! Og hvör sá, sem þad tekur fyrir sig, honum er ecki audid ad umvendast, svo leingi hann þad ecki afleggur. Því hvad gjörir hann? Hann lokar aptur fyrir sjálfum sér dyrum nádarinnar, útsleckur heilagann anda, og rétt sem fóttredur Jesú blód, já vill ecki vakna fyrr enn í helvíti og kvölunum.

En þó er þad vel adgjætandi, ad þad er samt alls ecki nóg til sáluhjálpar fyrir einn dryckjumann, þó hann afleggi brennivíns- og annara áfeingra dryckjabrúkun; hann hlýtur þar á ofan ad gjöra eins sanna ydrun, sem Jóhann gjördi, og verda ný manneskja svo vel innvortis fyrir Gudi, sem útvortis fyrir mönnum; því öll lifnadar betrun verdur ad framkoma, ef hún í Guds augum skal neckurt gyldi hafa, af rót sannrar trúar og Gudhrædslu, annars er hún lítt betri enn hræsni og skinhelgi.

Enn framar er þad athugandi, hvørsu sælt ad Jóhanni fanst ástand sitt ordid vera, eptir þad hann var sannumvendtur ordinn; þá fyrst, en aldrei fyrri, fann hann til þess, hvad þad er: farsæll og sannglaður ad vera. Þetta er þó þvert á móti því, sem heimsins børn hugsa, ad Gudhræðslan sé, þar þaug álíta hana pínu sálarinnar, og halda ad sá géti aldrei gladur verid, er hana alvarliga ástundar, þar þó Gudsord segir þvert á móti: „ad Guds ríki sé ecki matur né dryckur (þad er kræst fæda og áfeingir drykkir), heldur sé þad réttlæti, fridur og føgnudur í heiløgum Anda" (Róm. 14, 17), hvørra orda sannleika ad Jóhann, í sjálfum sér, fylliliga reyndi.

En sért þú nú sjálfur, minn vin! sem þessa frásøgu les edur heyrir, sannarligt Gudsbarn ordinn, og þú sért þarum fyrir þína eigin persónu sannfærdur, en andvarpar þó yfir umvendunarleysi og hjartaherdslu, hvørt heldur þinna áhángenda sérílagi, edur allra þinna medmanneskna yfirhøfud, þá ørvæntu þeim samt ecki alls, Guds nádar. Því þad sama sem Andi Guds hefir gjørdt vid þig, edur þann ádur umgétna Jóhann, sem sagan er af, og mørg þúsund annara syndara, þad kann hann ogsvo, fyrir þína trúar- og kjærleiksfullu bæn fyrir þeim, og fyrir kraft sinna lífsins orda, hjá þeim ad verka. Vertú þessvegna óþreytandi í þinni vidleitni ad efla annara einkum andliga velferd, og muntú, á sínum tíma, óþreyttur uppskéra! (Gal. 6, 16.)

☞ Evangeliskt Smárit frá byrjun Nr. 58, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafyrdi, á Eyafyrdi og á Reidarfyrdi gefins heim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfu ad senda þaug edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim sem þeir færa þaug, ef vilja.

Kaupmannahøfn 1844. Prentad hjá S. L. Møller.